# STAFROFSKVER

sérstaklega ætlað
íslenzkum börnum í Vesturheimi.

*Eftir séra ADAM ÞORGRÍMSSON.*



WINNIPEG.
Kostnaðarmaður Ólafur S. Thorgeirsson:
1920.

# FORMÁLI

Fyrstu tildrögin til þess, að þetta kver kæmi út, voru þau, að erfitt var að fá stafrofskver frá Íslandi á meðan stríðið stóð, einkum síðari árin. Herra Ólafur S. Thorgeirsson í Winnipeg bað mig þá (1917) að semja stafrofskver handa íslenzkum börnum í Vesturálfu, sem sniðið væri eftir staðháttum hér, að því leyti sem hægt væri. Eg var þá við nám, og anna minna vegna hefir dregist svo lengi að kverið kæmi út. Nú er ef til vill ekki eins örðugt að fá kver að heiman, en mér og útgefandanum finst samt, að almenningur vestan hafs muni telja það æskilegt að eiga stafrofskver, sem börn þeirra geta tileinkað sér sérstaklega. Eg vona að mér hafi tekist að gera kverið svo úr garði, að það geti gert börnunum auðveldara að læra að stafa á íslenzku, og fullorðna fólkinu að kenna.

Til kennaranna vil eg beina þessum orðum:

Þegar byrjað er að kenna barninu að stafa, þá kennið því fyrst að þekkja aðeins fáa stafi, eins og kaflarnir segja til, og látið þau læra að kveða að tveggja og þriggja stafa atkvæðunum, áður en lengra er haldið. Þess er ekki að vænta, að barnið geti kveðið rétt að atkvæðunum í fyrsta sinn, og á að láta það fara eins oft yfir hvern kafla og þarf til þess, að það geti kveðið að hverju atkvæði hiklaust. Og látið það ná vel hljóði hvers stafs.— Þegar stafirnir fara að koma fyrir með breyttu hljóði, þá þarf barnið að lesa kaflana þangað til það nær réttum framburði. Börnin eru misjafnlega fljót að nema, en ekki má láta neitt barn halda áfram örar en svo, að það geti valdið verkefninu. Undirstöðuna verður að byggja vel.

Í kverinu eru ekki margir leskaflar, en það er hugmynd mín, að ef þessu kveri verður vel tekið, þá muni koma út lesbók fyrir íslenzk börn í þessu landi, sem tekið geti við af kverinu.

Hayland, Man., 1. Júlí 1920.

ADAM ÞORGRÍMSSON.

1

a e i

a e i e i a i e a i a e

b p m

b p m p m b b m p
m b p

b

ba be bi be bi ba bi be ba
be ba bi ba bi be

p

pa pe pi pe pi pa pi pe pa
pe pa pi pa pi pe

m

ma me mi me mi ma
me ma mi ma mi me

# a e i a e i a e i

ap am em ep am im ap em ip im am
ap em am ap

ap-a ap-i am-a am-i am-a ap-i am-i ap-a



2

# o u æ

## o u æ u æ o æ o u
## o æ u

bo bu bæ bu bæ bo bæ bu bo bu bo
bæ bo bæ bu

po pu pæ pu pæ po pæ pu po pu po
pæ po pæ pu

mo mu mæ mu mæ mo mæ mu mo mu
mo mæ mo mæ mu

op um æp am ap em ep im æp um op
am ap em

ap-i æp-a am-a æp-i am-i ap-a am-a am-i
æp-a ap-i

3

# l n r

## l n r n r l r n l

## n l r n r l

## l

**la le li lo lu læ lu lo li**
**le la læ lo læ lu la li le**

## n

**na ne ni no nu næ**
**nu no ni ne na næ**
**no næ nu na ni ne**

## r

**ra re ri ro ru ræ ru ro ri**
**re ra ræ ro ræ ru ra ri re**

al el il ol ul æl
an en in on un æn
ær ur or ir er ar
al-a ar-i ær-a un-a un-i

4

a e i o u œ

a u e i œ o

b p m l n r

n l r m p b

a b e p i m o l u n œ r

r a b æ n u l e p i m o

œ n u r o l i m e p a b

bar ber bor bur bær bæn ben ban bun bæn
par pel pæl pun par

mal mel mol mul mæl mær mæn men
mun man mar mer mor mur mal

lam lem lim lum lap lep lop læp lin lon
lær lur

nam nem num næm næl nær nor nap
nep næp

rar rær rop ræp ræn run ran rim ræm
rum rem ram

5

ran-i ræm-a run-a ræn-a rop-a næp-a næl-a
næm-i nem-a lær-i lær-a lin-a lop-i læp-a
lum-a lim-a lam-a lam-i mal-a mur-a mor-a

mer-i mar-a man-a mun-i mun-a mæn-a
mæl-i mæl-a mol-i mol-a pel-i pæl-a bun-a
ban-i bær-a bur-i bor-a ber-a bol-i

6

# á í ó ú ö

## í á ó ú ö ó ú á ö í á ó ö í ú

bá bí bó bú bö pá pö pú pí pó má mó
mí mö mú ló lö lú lí lá nö nó ní ná
nú rö rí ró rú rá
ár ír ór úr ör ón án ín ön ún öl ól úl
íl ál öm ám úm ím óm áp óp úp íp öp
bí-a bú-a pú-a mó-a ló-a lú-i lí-a nó-i
rí-a ró-a
ám-a óm-a ím-a ól-i íla ír-a ór-a úr-i ár-a

7

rím rám rúm róm röm ról rán rín rún
rör rór rár ráp ríp
lár lúr lán lón lín lön löm lím lóm lúp
nár nál níl nón nám núm
már mór múr mör mál míl mól múl möl
mán mín mön
pár pír páll púl píp páp
bár búr bör bál bíl ból böl
ból-a bár-a páp-i píp-a púl-a pír-a pár-a

mán-i mín-a múl-i míl-a mál-a mór-i mór-a
núm-i nám-a lúp-a lím-a lín-a lán-a lúr-a
ráp-a rún-a ról-a róm-a rím-a ríl-a

8

# g k s

**s k g k g s g s k**
**s g k k g s k s g**
**s g k g k s**

ga go gu gá gá gú gö
kö kú kó ká ku ko ka
sa se si so su sæ sá sí só sú sö
ak as æs ís ás ók ok ek ós
ás-a as-i ak-a ís-a ós-i ák-a ok-a ós-a æs-a

## g

gam gap gal gan gár gól gor gul gum
gas gos gus gop gám gön gón gól
gap-a gap-i gal-a gár-i gol-a gum-a gos-i
gus-a gop-i gón-a gól-a

9

# k

kös kök kör kúr kúl kúp kór kól kóp
kár kál káp kur kul kok kol kon kom kar
kök-u kúr-a kúl-a kúp-a kár-i káp-a kon-a
kom-a

# s

sal sel sæl sál síl sól söl sek sök sor
sær sár súr sór son sín sam sem sum
sæm sám sím sóm söm sep sáp sop sóp
sóp-a sop-i sáp-a sóm-i sím-a sam-i sæm-a
súr-a sær-a sor-i sum-a síl-i sæl-a

10

# d t h

**h d t d t h t h d h t d**
**d t h d h t h t d t d h**

da do du dæ dá dí dó dú.
tó tí tá tæ to ta te tö
ha há he ho hu hæ hí hó
at ot æt át ít öt út
at-a et-a ot-a æt-i át-a út-i æt-a

## d

dát dót des dæs dís dós dús dík dúk
der dur dár dór dúr dal dul dæl díl dun
dún dæm dám dóm

dát-i dís-a dór-i dús-a dul-a dæl-a dun-a
dóm-i dæm-a dár-i

11

## t

tot tæt tát tít töt tos tás tak tek tæk
tík tók tök tær tár tór tal tel til tæl tól
töl tín tún tam tum tæm tím töm tőm
tap tæp táp

tap-a tím-i tæm-a tum-i tín-a tæl-a tal-a
tór-a tak-a tók-u tás-a tos-a tát-a tæt-a
tot-a

## h

hat hak hal han ham hop hæp hóp hem
hím húm höm hæs hás hús hak hok hák
húk hök her har hor hær hár hör hír
hal hol hul hál hæl hól hæn hún

hat-a húk-a hal-a han-i hop-a hún-a hær-a
hæn-a hír-a

12

# a b e p i m o n u l œ r á g í k h ú s ú d ö t



ap-i er á ás-i, ás-a er á ós-i, am-i er í ás-u, ís-a er á ís-i, ar-i á úr, tó-a er í mó, ló-a lá á ás-i, nú er gó-a, ás-a má hó-a í ar-a, ar-i er tí-u ár-a, ás-a er ní-u ár-a, tó-a sá æt-i, as-i er á ar-a út-i í mó, æs-a má hó-a út-i um mó-a, ar-i er á sæ, ás-i má ró-a, nú er úr ar-a ní-u, ól-i má al-a tó-u, ær ól-a er út-i, ás-i sá am-a í ás-u, bú-i má pú-a, ís-a er á rá, tí-u er-u ær ar-a, nú má ól-i æp-a, ás-i má ær-a tó-u, un-a er í ró, bí bí

13

tum-a er mál á mat, bol-i ber bár-u, bær rún-u er á mel, pel-i er mál, lár-a er mær, sem ber men, mál er mæl-a, lop-i er í lár, már er á bár-u, möl er á mel, míl-a er til rún-u, hún man mar-a, bár-a á næl-u, sem má næl-a í net, hún á lík-a nál, sól er hin sam-a á sæ sem í sal, rún-a mun lær-a bæn, hún er næm, má kár-i eta mol-a, lín-a má lán-a lás-a sóp, un-a kom til dór-u, má lín-a lím-a tot-u á tán-a sín-a, tót-a ber tum-a, tát-a má tín-a ber, han-i er á hól, hæn-a er í

hús-i, sín-a má gól-a, ól-i á ról-u, bín-a á ber í búr-i

14

dór-i er hár, rós-a á mós-u, dísa sá dós, sem dór-a á, lás-i las í bók um kis-u sín-a, bú-i sá un-u bak-a kök-u, kár-i sá bás bol-a, nú er gol-a út-i, kis-a tók mús í búr-i, sín-a sá pál kom-a til sín, gos-i er gap-i, dór-i át næp-u, kar-a tók kóp, bín-a sat út-i á hól, nú er rós-a út-i á tún-i, kis-a á hol-u í hól, mús á hol-u, ás-a á sáp-u, sem hún ber til lín-u, bín-a sá bun-a í bal-a, nú sá hún ból-u, dór-a bær er í nes-i, un-a er læs, hún á bók, sem hún les í

15

j f v

v f j f v j v j f j v f v f j

ja je jo ju jæ já jó jú jö

fa fi fo fæ fá fí fú fö

va ve vo væ vá ví vó vú vö

fí-a fú-i fá-u jó-a ví-a

j

jap jan jún jón jól jór jak jók jós

jat jöt

jún-í jak-a jók-a jat-a

# f

fip fal fet fol fæl fíl fúl föl far fer for
fær fár fór för fok fák fas fis fús fat
fet fit fát föt

fip-a fal-a fel-a fol-i fæl-a far-a fær-i
fór-u fet-a fit-a fús-i

# v

vip vín van vin von væn vín vön val
vel vil væl víl völ var ver vor vær vör
vak vek vik vík vök vas vos vís vot
væt vít

vím-a. van-i von-a val-a væl-a víl-a var-i
ver-a vak-a vik-a vas-i vís-a væt-a vít-a
vök-u

16

# ð þ x

x þ ð þ ð x ð þ x

að eð ið uð æð áð íð óð úð öð
þa þe þi þo þu þæ þá þí þó þú þö
ax ex ux æx óx öx
ið-a æð-a áð-u úð-i ux-i öx-i

## ð

bað beð bið boð dáð dúð goð góð háð
hið híð hæð joð kóð láð lóð löð moð
móð náð nið ráð rið roð röð sáð síð soð
tíð vað við víð voð veð

## þ

það þið þak þek þok þök þel þil þol
þám þín þar þor þór

## x

fax kex lax sax sex söx vax vex

jón bað þór-u að far-a með föt-u út í læk, þór-a er góð, hún fór að fær-a fús-a jól-a föt, fí-a fór



með völ-u út að vök, þær fór-u með föt-u, en hún var há að ber-a han-a, nem-a fí-a fær-i með völ-u lík-a, fús-i á ux-a, fol-i þór-u vex við að et-a úr jöt-u fax-a, fax-i bar þór-u á bak-i sín-u, það er vís-a í bók jók-u, sem ar-i les með völ-u, þór á öx-i, þór-a er að dúð-a jón til að far-a út, jó-i fær kex að et-a, það er vik-a til jól-a nún-a, jók-a er að bak-a kök-u, fús-i sá fíl,

## f (með v-hljóði)

af-i gaf láf-a mol-a, þór-a má haf-a mín-a húf-u, fí-a er guf-a, jón sá ref, af-i er að vef-a, lof-a þú af-a að sof-a, það er töf, að lof-a láf-a að far-a með, ef láf-i fær að far-a með af-a, þá fer þú líka, fíf-a er ær, sem af-i á, þúf-a er í tún-i, sú þúf-a er há, ef hún er of há, þá má ríf-a han-a, fí-a er að tæ-a fíf-u, bós-i er að ríf-a roð, það fer að rof-a til, dór-a á dúf-u, dór-i tók han-a í háf,

## g (með linu hljóði)

jeg og þú, það má lag-a það sem er til bag-a, ar-i bað bog-a að lag-a það, bós-i er að nag-a roð, jeg kom á bak á log-a í dag, ar-i fór með log-a í hag-a, ól-i er að sag-a með sög, bós-i er að tog-a í tág, sem un-a var að tak-a af dór-a, bol-i er að bít-a út-i í hag-a, þór-a og un-a fór-u með bog-a, og jeg lík-a, fí-a sá bog-a ver-a að veg-a með vog, ás-a er hæg og þæg, ar-i bar mig út á veg, jeg ber þig og þú mig,

## g og k (með gj- og kj-hljóði)

jeg fór út í hag-a í gær til að fá ger, má jeg gef-a af-a kis-u, jeg sé gæs út-i í kof-a, kis-a má et-a ket af mús, jón mun gæð-a kis-u á ket-i, kel-i



fór út að gil-i með ker, kær-a un-a mín, þú fer með kis-u út, tó-a á hol-u í gil-i, má jeg gæl-a við kis-u, kis-a er gæf, það er gæf-a að gef-a, kæf-a er góð,



# y ý

ný bók, nýr bær, jón á bók, ar-i býr í bæ, nú er byr á bár-u, jeg kom fyr en þú, kis-a sá mýs, un-a á mýr-i á sex kýr, kis-a er kyr í búr-i, sýr-a er súr, ýs-a er góð að et-a, ák-i má lýs-a af-a, af-i er hýr, dyr er-u á hús-i, kis-a er dýr, sem má et-a mýs, mýs er-u lík-a dýr, býl-i þór-u er á ás-i, það er fýl-a í þór-i, bós-i er að ýl-a, bós-i má ýf-a sig, fús-i er að hýs-a kýr, sem jón á, ver

þú kyr, jeg kýs kis-u, jón er að týn-a töl-u, kel-i er að sýn-a jó-a dys, mys-a er góð,

19

ar-i lær-ir að les-a og hef-ir ver-ið gef-in bók, það er gam-an fyr-ir mig að fá að far-a út í sum-ar, þeg-ar þór-ir kem-ur, við för-um þá út á á og ró-um með ár-um á bár-um, við er-um báð-ir fær-ir um að far-a yf-ir án-a, hæð-ir og hól-ar er-u fyr-ir of-an tún-ið á mel-um, ak-ur þór-is er fyr-ir neð-an hús-ið, það er-u sex míl-ur til þór-is, þar er gam-an að ver-a, þeg-ar þór-ir bið-ur mig að kom-a, þá fer eg á log-a, og við ríð-um báð-ir á hon-um, þeg-ar við er-um sam-an, val-ur lep-ur úr bal-a, han-i gal-ar, en hæn-an tín-ir góð-an mat fyr-ir sig og sín-a, jón get-ur lát-ið tót-u les-a

20



**au ei ey**
**ei ey au**
**ei au ey**
**au ey ei**
**ey au ei**

**ey ei au ei au ey au ei ey au**

jeg á tí-u aur-a, dal-ir og aur-ar er-u til að kaup-a fyr-ir, laug-a sá maur, þau laug-a og dór-i haf-a bæð-i fög-ur aug-u, baug-a saug rauð-u kún-a, rún-a á bauk, kýr-in baul-ar, bol-i þaut út, naut-ið gaut aug-um sín-um til rauð-a bol-a, tót-a laum-ar baun í vas-a láf-a, láf-i gef-ur gaum að tót-u og laun-ar það,

21

## ei

ein-ar á ein-a bók, veig-a má eig-a han-a, geir-i gef-ur bós-a bein, laug-a er feim-in við geir-a, veig-a beið í heil-an tím-a til að get-a far-ið með geir-a út að leit-i, ein-ar og fús-i er-u að leit-a að geit, þeir kom-a heim í dag, má eg lát-a eit-ur í bit-a af ket-i til að veið-a tó-ur, sei sei nei, þá get-ur kol-ur et-ið það og dá-ið, kis-a reif ein-ar, kis-a er feit, hún et-ur meir-a af mús-um en eg vil, baug-a er á beit út-i í reit, teit-ur veið-ir keil-u í net, jeg á bæð-i reip-i og kað-al, þór-a býr til deig í kök-ur,



22

## ey

ey er í á, ein-ar fór út í ey, jeg heyr-i með eyr-a, það er beyg-ur í bog-a við laug-u, það má leyf-a veig-u að geym-a aur-a sín-a í bauk jó-a, ás-a

teyg-ar úr pel-a, geir-i eyð-ir aur-um sín-um, ein-ar keyr-ir á mós-a og gef-ur hon-um hey, þeg-ar bú-ið er, un-a tek-ur eys-il að aus-a með, mey og mær er það sam-a, lauf-ey á peys-u, jó-i þeys-ir á log-a út mýr-ar, við eig-um að reyn-a að ver-a góð og ið-in að les-a, geys-ir gýs, rún-a má leys-a mós-a og keyr-a á hon-um út að mýr-um í dag,

23

é

mér þyk-ir gam-an að les-a, pét-ur lét geir fá mik-ið fé, féð er á beit út-i, hér er hér-i, jeg hef-i séð leif gef-a fé sín-u hey, hey-ið er hél-að, sér-a ein-ar réð pét-ur til sín, jón fær sér kýr, tum-i lauk nám-i á ein-u ár-i, sum-ir ger-a það á sex ár-um, dór-a er að raul-a vís-u, hún sér han-a í bók, sem hún á, mér þyk-ir þú ver-a vel læs, pét-ur leit-ar sér að rek-u, val-ur et-ur feit-an bit-a, þór-ir á sér ein-a á og ein-a kú, þér má ver-a vel við geir-a, mér er sam-a þó að eg sé með þér,

24

## (Tveir samhljóðendur í forhljóði.)

gam-an er að kveð-a kvæð-i um sveit sín-a, sva-va dvel-ur hjá mér í tvo dag-a, hún var að þvo í gær, kis-a er að reyn-a að tal-a, mjá mjá, má jeg sjá svein keyr-a, svar-a þú mér, það er-u svo

sem tveir dag-ar síð-an jeg sá svein, lár-us bjó á bæ, sem hét dvöl, bol-i er ljót-ur að þjót-a svon-a út og meið-a svein.



25

fleyg-ur stín-u er blár, það er brú á þeim læk, stein-i brýn-ir hníf, dríf-a og fló heit-a tvær ær dór-a, dreyr-i dró meir-a hey en hin-ir þrír, gló-i sló snat-a flat-an, jeg á grís, sem gró-a gaf mér, val-ur er grár, sá er nú fleyg-ur og fær, stein-a



hef-ir skýl-u, hún hraðar sér að smal-a, sól-in skín í heið-i, gríl-a er bæð-i ljót og leið, stín-a á stór-a skó, það er hreið-ur með ung-um í út-i í gren-i tré-nu, jeg á fleir-i kúl-ur en stein-i, nú hrað-ar gró-a sér að skaf-a af sér, það er hríð út-i,

26

## (Tveir samhljóðendur í afturhljóði.)

jeg bind band í bolt-a og held svo fast í það, bald-i á kind, gust-ur er hest-ur, sem hild-ur á, það er ver-ið að hald-a fund í hús-i mund-a, gest-ur á fjór-a kálf-a og ein-a gimb-ur, ljóð-u mér kamb að kemb-a vald-a, mund-i á feld, stein-i á plóg og herf-i og hríf-u, það er týnd-ur tind-ur úr hríf-u af-a, fisk-ur synd-ir í vatn-i, hild-ur á mynd af fríð-u og stín-u, eg á land í nánd við skóg, bald-ur er mild-ur í lund, lind-i negl-ir nagl-a í fjöl, síld er fisk-ur í sjón-um, hún synd-ir í torf-um, vind-ur blæs í segl, og lætur skip-in þjót-a yf-ir öld-ur og dal-i, jeg hef-i tvær hend-ur og tvær fæt-ur,



27

## (Tvöfaldir samhljóðendur.)

pabb-i og mamm-a, af-i og amm-a, ann-a á bobb-a, mamm-a bann-ar kobb-a að tak-a bakk-ann sinn, mann-i bind-ur hey í bagg-a, gunn-i litl-i datt, það var hátt fall, sem hann fékk, þeg-ar hann féll, tunn-an er full af ull, þú mátt ekk-i gabb-a gaml-a ar-a, lubb-i heit-ir sepp-i minn, hall-ur á kött, hann drekk-ur úr boll-a, menn

gyll-a með gull-i, það marr-ar í skón-um hans sigg-a, hall-ur lét kött sinn í kass-a, mamm-a kyss-ir sigg-a sinn, það var góð-ur koss, það þarf að pass-a lubb-a litl-a, svo að stór-i sepp-i bít-i hann ekk-i, rikk-a drakk sætt kaff-i, jeg féll, þeg-ar eg var að renn-a mér á svell-i, þett-a er þinn runn-ur, sigg-i minn, minn er minn-i en þinn, það er-u fimm blóm í þín-um runn-i, nonn-i vill eig-a þenn-an spott-a,

28

skott-ið á lubb-a er stutt, þú mátt þakk-a gunn-u fyr-ir að finn-a þenn-an penn-a og gef-a þér hann, það er hrokk-ið hár á koll-i finn-u, finn-a á boll-a, jeg er hiss-a á þess-u, þú ert að miss-a hatt-inn þinn, nonn-i minn, gett-u upp á því rétt-a, sagð-i sigg-a við finn, þeg-ar hann var að reyn-a að ráð-a gát-u henn-ar í gær, bogg-a fann átt-a egg í dag, kobb-i er að ydd-a brodd í staf, dodd-i fann stokk út-i við brunn, stín-a hell-ir kaff-i í boll-a hand-a bess-a gaml-a að drekk-a, þett-a er gott vatn til þvott-a, hall-ur sett-i glugg-a á vegg-inn á skemm-u pabb-a, ól-i litl-i á legg,

29

(**nn** með hörðu hljóði og **ll** með linu hljóði.)
sveinn er vænn að staf-a, skeið stín-u er stærr-i en spónn pabb-a, kass-i pall-a er grænn en kist-a

ell-u er rauð, núll er nærr-i eins og o, vill-i er seinn að les-a, spánn er stórt rík-i, pall-a er sýnn-a um verk sín en ell-u, brúnn er vænn hest-ur, dúnn er hlýr, hall-i fór upp í mill-u til jóns, steinn er einn út-i hjá mill-u, hall-i er beinn eins og steinn, vill-i er hreinn, af því að ell-a þvoð-i hon-um, kall-i át pill-u, sem vill-a gaf hon-um, einn og tveir er-u þrír,

30

## hv

hver vill ver-a svo vænn að hvet-ja fyr-ir mig þenn-an hníf, hall-ur veit hvar brýn-ið er, hvor ykk-ar er stærr-i, hall-i eða pall-i, hval-ur er stórt dýr í sjón-um, skinn-ið á hon-um heit-ir hvel-ja, hvað heit-ir hund-ur kall-a, hann heit-ir hvat-ur, hvat-ur fór út að hvol-i með nonn-a, hveit-i er gott í brauð, hveit-i verð-ur hvítt,, þeg-ar bú-ið er að mal-a það, það er far-ið að hvess-a, hver er lind með heit-u vatn-i í, en kver er lít-il bók, hvat-ur hvolf-ir um stórr-i skál, hvat-ur er hvít-ur á lit-inn, jón hvísl-ar að sigg-a, hvað var það,



31

(grannur stafur með breiðu hljóði)

mang-a geng-ur fram göng, rank-a er ung stúlk-a, brynk-i vind-ur hönk fyr-ir rönk-u, jeg fann ung-a út-i á eng-i, ing-a bar lít-inn dreng í fang-i sér lang-a leið, af því að hann kunn-i ekk-i að gang-a, ing-i syng-ur vel, og eng-inn leik-ur bet-ur á hörp-u, rank-a er flink að stang-a, hún tek-ur lang-a hönk hjá möngu og sting-ur henn-i á fing-ur sinn, eg var leng-i að gang-a upp að bank-a, mang-a á hring, rank-a er svöng, það er stór bunk-i af löng-um plönk-um út-i á eng-i, ing-i er góð-ur dreng-ur,

32

f (með b-hljóði.)

hrafn og krumm-i er-u nöfn á sam-a fugl-i, jeg nefn-i hann ald-rei hrafn, ing-i stefn-ir með hrefn-u út í skafl, brynk-i er að hefl-a efn-i í stafn á hús-i nafn-a síns, mang-i á tafl, hann safn-ar sín-um mönn-um sam-an og stefn-ir þeim fram á borð-ið, hann tefl-ir vel, blóm-in lifn-a á vor-in, þeg-ar skafl-ar er-u tekn-ir, kufl er sam-a og káp-a, konn-i dett-ur á gafl-inn og hrufl-ar sig í fram-an, fífl-ar er-u fög-ur blóm, bux-ur jó-a er-u rifn-ar, hrefn-a tek-ur nál og kefl-i og bæt-ir þær, mang-i trufl-ar hrefn-u, stefn-ir hafð-i ofn út við stafn-inn á kof-a sín-um,

33

## rl og rn

árn-i er lít-ið barn, björn og örn er-u farn-ir út að tjörn, karl er varl-a fimm ár-a, bjarn-i er árl-a á ferl-i, árl-a er sam-a og snemm-a, það er hjarn út-i, sörl-i er hest-ur árn-a, jeg á fern-a sokk-a, þorn er staf-ur, þarn-a er í-korn-i, korn er mal-að í kvörn, hyrn-a er kýr-in mín, perl-ur er-u svo dýr-ar, að þær sjást varl-a nem-a hjá rík-u fólk-i, árn-i spyrn-ir í og varn-ar bjarn-a að drag-a sig, það er turn á þess-u hús-i, ein-u sinn-i vor-u karl og kerl-ing í kot-i og átt-u sér mörg börn,

34

## z s z s z s z z

## z

gest-ur anz-ar mér ekk-i, sörl-i hef-ir beizl-i, það hef-ir fezt á stafn-i, þú gazt náð hon-um, mér lízt vel á þann hest, jón læzt vil-ja beizl-a grán-a, það er bezt að hann reyn-i það, bjarn-i sezt á bak á grán-a, tízk-an er ekk-i leng-i að breyt-a okk-ur, sá er sízt-ur, sem fylg-ir tízk-u, þú veizt að vizk-an er bezt, jón özl-ar út í poll, björn er að vinz-a úr korn-i, reizl-a er vog, það var hald-in veizl-a hjá ar-a í gær, sigg-i sezt í minn stól,

35.

*Óli að herfa;*

óli var tíu ára, þeg-ar hann fór með pabba sínum út á ak-ur; pabbi hans var með fjóra hesta og plóg, en óli hafði herfi og tvo hesta fyr-ir; það voru þeir gráni og grani; óli litli gekk, því að ekki var sæti á því herfi, sem hann hafði; en það var nú gott fyr-ir hann að læra að stýra hest-um, áð-ur en hann fór að sitja á herfi eða hrífu; lengi gekk alt vel, en alt í einu sá gráni kisu hlaupa hjá með mús, og þá varð hann hrædd-ur og fór að hlaupa, og grani líka; en óli karl-inn var nú ekki á því að sleppa þeim; hann hélt fast í taum-inn með báð-um hönd-um og hljóp eins hart og hann gat á eftir þeim, en hann gat ekki hlaup-ið nógu hart, svo að hann datt flat-ur; en þá lét hann þá draga sig, eins og herf-ið; nú sá pabbi óla til haus og var ekki lengi að hlaupa á stað; en þá var óli litli sjálf-ur búinn að stöðva hesta sína og kom-inn á fæt-ur; föt-in hans voru mold-ug, en það gerði nú lítið til; hann hafði þó ekki gef-ist upp, og pabbi hans sagði að hann mundi seinna verða rösk-ur snáði; og óli varð ekk-ert vond-ur við kisu sína, þó að hún fældi grána;

36.

Þess-ir staf-ir, sem þú hef-ir lært að þekk-ja,

heita litl-ir staf-ir ; en það eru til aðr-ir staf-ir, sem heita stór-ir staf-ir ; þú ert nú bú-inn að lesa svo mik-ið og orð-inn svo stór, að þú get-ur far-ið að þekk-ja stóra stafi líka ; þeir eru miklu stærri en litl-ir staf-ir, en þeir hafa sama hljóð, þó að þeir séu ekki eins ; nú skul-um við byr-ja;

A Á E I Í O Ó

a á e i í o ó

A Á É I Í O Ó

Ari og Ási fóru út að Ósi. Ef dep-ill er sett-ur á eft-ir orði, þá byrj-ar næsta orð á stór-um staf. Í-var, Odd-ur og Ingi heita bræð-ur mín-ir. Anna og Emma og Inga og Olga og Ásta heita syst-ur Óla. Ís-land er ætt-land mitt.

U Ú Y Ý Æ Ö

u ú y ý æ ö

U Ú Y Ý Æ Ö

Una er syst-ir Árna. Öll-um þyk-ir vænt um Óla og Olgu. Úlf-ur, Yng-vi og Örn eru göm-ul nöfn. Æg-ir er sama og sjór. Ýmir var stór risi. Yng-ri bróðir minn á hund, sem heitir Orri. Örn er stór fugl. Ætli Una og Ingi séu kom-in.

37.

B D F G H J

b d f g h j

B D F G H J

Björn og Jón fóru að finna Dóru og Gunnu að gamni sínu. Halli og Finna vildu ekki leika sér með þeim; þau sögðu að þau væru svo lítil. Einu sinni kom Dóri á Hofi út að Brú til að leika sér við Grím og Hildi; þau Dóri og Hild-ur voru á sama ald-ri, bæði níu ára, en Grím-ur var tólf ára. Dóri og Hild-ur földu sig og létu svo Grím leita að sér. Jón gamli var að aka heyi, og þau földu sig uppi í stakk hjá hon-um, svo að Grím-ur fann þau ekki, fyr en Bjössi og Finni komu ut-an af engi og fóru að hjálpa þeim að leita.

38.

K L M N P R

k l m n p r

K L M N P R

(Þrír samhljóðendur í forhljóði)

Nú er far-ið að frjósa og eru víða gljár á ísn-um. Leif-ur í Nesi er að aka grjóti á Rauð og Laufa. Leif-ur stríð-ir í ströngu að koma þeim yf-ir sprungu, sem er á ísn-um. Mundi og Kalli fara á harða spretti til að hljálpa honum. Rúna og Ninna eru fljót-ar að prjóna. Pabbi fór út að skjóta rjúp-ur; hann fékk þrjár. Pét-ur sá marg-ar stjörn-ur, þeg-ar hann fór út með Nonna og Kela; það þótti hon-um skrít-ið. Pabbi skrif-ar vel; skrift-in hans er betri en skrift Munda. Pét-ur skrapp út að Lundi.

39.

S T V X Z Þ
s t v x z þ
S T V X Z Þ

(Þrír samhljóðendur í afturhljóði)

Siggi komst til manns; hann var alt-af efst-ur í skóla og aldr-ei seinn til neins verks. Trygg-vi, Valdi og Þóra reyndu sig að hlaupa; Þóra var fremst, og komst langt á und-an bæði Trygg-va og Valda. Svo reyndi Sveinn að hlaupa á móti Þóru og komst strax á und-an henni. Tóm-as hef-ir verzl-un; hann verzl-ar helzt með gling-ur. Valdi breiddi fisk til þurks; hann er rösk-ur dreng-ur. Zenó var vit-ur maður. X í byr-jun orðs hef-ir sama hljóð og s, en það er aldr-ei haft í byr-jun orðs í okk-ar máli, og ekki z heldur.

40.

(Samhljóðendur með óreglulegum framburði)

Önnur ær-in hans Árna er tví-lembd. Þóra kembdi Valda litla. Tóm-as og Geir fara upp á burst og halda að þeir geti stokk-ið niður, en þá sundl-ar svo mik-ið, að þeir þora það ekki. Bjarni, Karl og Æg-ir lögð-ust til sunds. Æg-ir stefndi fyrst til lands, en hann var varla snú-inn við, þegar Karl nefndi hann í fyndni sinni barn-ið, af því að hann þyrði ekki að vera nema þar,

sem hann næði til botns. Dóri er þyrst-ur. Ella var byrst við Fríðu. Halli fór með Lalla að gamni sínu til að finna Manga og Nonna. Pét-ur, Ragnar og Gyða eru syst-kin.

41.

Nú ertu orðinn svo vel læs, að þú getur far-ið að lesa sögur og vísur.

Hérna er skrítin þula :

Fagur er fiskur-inn,
flýgur hann í sjónum,
brönd-óttur á halan-um,
með rauða kúlu á magan-um.

Eftir gömlum vanda
gættu þinna handa.
Fetta, bretta ;
láttu ekki högg í lófa—*detta!*

Þú tekur aðra hendina á pabba þínum eða mömmu þinni, eða einhver-jum öðrum, í vinstri hönd þína ; svo strýkur þú lófann með hægri hendi þinni og mælir fram vísuna um leið, og þegar þú segir : *detta*, þá skellir þú á lófann, svo að smellur í ; þá verður þeim ilt við, en þú ferð að skelli-hlæja. Bezt er fyrir þig að hafa þuluna svo lágt, að þau heyri ekki, því þá vita þau ekki hve-nær þú segir : *detta.* Ef þau vita

hvenær þú segir það, þá kippa þau að sér hendinni, áður en þú getur skelt á hana með lófa þínum.

42.



Bí bí og blaka,
álft-irnar kvaka ;
jeg læt sem jeg sofi,
en samt mun jeg vaka.

Þessi vísa er oft sungin við litlu börnin heima á Íslandi. Þeim þykir gaman að henni. *Álftin* er fagur fugl. Hún er stundum kölluð svanur. Hún er al-hvít með langan háls. Hún er eins stór eins og örn en miklu fallegri. Hún kann vel að synda og heldur sig helzt við vötn uppi á heiðunum á Íslandi. Hún syngur fjarska vel. Svanir eru til í þessu landi líka. Víða eru þeir tamdir.



*Á* Íslandi eru margir aðrir fuglar sem syngja vel, einkum litlir fuglar. Lóan er álíka stór og svart-fuglinn, sem er hérna í ökrunum, en hún er svo miklu fallegri og syngur svo yndislega.

Hún segir: bí, bí, dýrðin, dýrðin. Spóinn er skrítinn fugl. Hann hefir langa fætur og langt og mjótt nef. Hann segir: hú-hú-hú-hú-húrr-rrrr-a. Sólskríkja, stein-klappa og marjátla (eða maríu-erla) eru litlir söngfuglar, fjarska fallegir, og syngja eins fallega og rauð-bristingur, eða betur. Grátitlingurinn tístir líka fallega.

43.

Eg á kindur úti tvær
ekki langt frá bænum,
hrútur einn og höttótt ær
hoppa' á velli grænum.

Það eru margar kindur á Íslandi, og börnunum þykir svo undur vænt um litlu lömbin. Þau eru nærri því eins og lömbin hér í Vesturheimi, nema rófan á þeim er ekki eins löng. Flestar kindur á Íslandi eru með stórum hornum, og sumir hrútar hafa svo hræði-lega stór horn, að litlu börnin eru hrædd við þá. Sumar kindur hafa fjögur horn.

Litlu lömbin eru stundum tekin frá mömmu sinni á vorin, þegar þau eru farin ofur-lítið að stækka, og rekin langt, langt í burtu, upp á fjöllin. Þar eru þau alt sumarið, en á haustin er þeim smalað, með fullorðnu kindunum, og þau rekin í stórar réttir. Þar eru stundum mörg

þúsund kindur í einni rétt. Svo koma þeir sem eiga kindurnar, og hver tekur sínar kindur og rekur heim til sín. Þeir þekkja þær á mörkum á eyrunum á þeim.—Þá þykir nú litlu börnunum gaman að sjá lömbin sín.

Bíum, bíum bamba,
börnin litlu þamba
fram á fjalla-kamba
að leita sér lamba.

44.

Litla Jörp, með lipran fót,
labbar götu þvera;
hún mun seinna' á manna mót
mig í söðli bera.

Þessa vísu kveður lítill drengur, sem á folald sem heitir Jörp. Hann hlakkar til þess, þegar Jörp hans er orðin svo stór, að hún getur farið að bera hann. Þá ætlar hann að ríða á henni, þegar hann fer á samkomur, eða að finna kunningja sína.

Íslenzkir hestar eru miklu minni en flestir hestar í Ameríku; þeir eru mikið notaðir til að ríða á þeim, og eru miklu þýðari en hestarnir okkar. Öllum þykir fjarska gaman að ríða á íslenzkum hestum.

Litli Skjóni leikur sér,
lipurt hefir fótatak;
pabbi góður gaf hann mér,
gaman er að skreppa' á bak.

-:- -:- -:-

Afi minn fór á honum Rauð
eitthvað suður á bæi
að sækja bæði sykur og brauð,
sitt af hverju tægi.

45.

C Q W

c q w c q w c q w c q w

Þessir stafir eru ekki í íslenzku máli, en þeir koma mjög oft fyrir í Ensku; þess vegna þarft þú að læra að þekkja þá líka.

C c c c c c

C hefir stundum sama hljóð og k, en stundum sama hljóð og s.

C fyrir framan ó, ú, á
eins hljóðar og væri k,
en fyrir framan e, æ í
sem s-i skaltu kveða að því.

Q q q q q q

Q er borið fram eins og k.
W er borið fram líkt og v.
Í íslenzku koma oft fyrir erlend nöfn, til

dæmis nöfn á mönnum og stöðum, og þá er c, q og w oft í þeim nöfnum.

Þessi nöfn þekkir þú líklega: Columbus, Washington, Lincoln. Canada, Quebec, Winnipeg.

46.

Tölustafir:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 |
| einn | tveir | þrír | fjórir | fimm |
| 6 | 7 | 8 | 9 | 0 |
| sex | sjö | átta | níu | núll |

1 og 2 eru 3; 2 og 3 eru 5; 3 og 4 eru 7; 4 og 5 eru 9; 1 og 6 eru 7; 1 og 7 eru 8; 1 og 8 eru 9.

Ef þú tekur 1 af 2, þá er eftir 1; ef þú tekur 1 af 3, þá eru eftir 2; ef þú tekur 2 af 4, þá verða eftir 2; en ef þú tekur 2 af 5, þá verða eftir 3; ef þú tekur 3 af 6, þá verða eftir 3; ef þú dregur 4 frá 7, þá verða eftir 3; ef þú dregur 6 frá 8, þá verða eftir 2; ef þú dregur 2 frá 9, þá verða eftir 7.

47.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 10 | 11 | 12 | 13 | 14 | |
| tíu | ellefu | tólf | þrettán | fjórtán | |
| 15 | 16 | 17 | 18 | 19 | 20 |
| fimtán | sextán | sautján | átján | nítján | tuttugu |

Þú hefir 5 fingur á hvorri hendi en 10 fingur á báðum höndum. 20 eru á þér tær og fingur, og nú getur þú talið:

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 | 9 | 10 |
| 11 | 12 | 13 | 14 | 15 | 16 | 17 | 18 | 19 | 20. |

Nú er gaman fyrir þig að læra að nefna alla stafina í röð.

Hérna eru þeir, en þeir eru svolítið öðruvísi en þeir, sem þú hefir verið að læra að þekkja; þeir hallast ofurlítið; þessvegna heitir þetta letur skáletur.

48.

Skáletur.

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| *A* | *Á* | *B* | *D* | *Đ* | *E* | *É* | *F* | *G* | *H* | *I* |
| *Í* | *J* | *K* | *L* | *M* | *N* | *O* | *Ó* | *P* | *R* | *S* |
| *T* | *U* | *Ú* | *V* | *X* | *Y* | *Ý* | *Z* | *Þ* | *Æ* | *Ö* |
| *a* | *á* | *b* | *d* | *ð* | *e* | *é* | *f* | *g* | *h* | *i* |
| *í* | *j* | *k* | *l* | *m* | *n* | *o* | *ó* | *p* | *r* | *s* |
| *t* | *u* | *ú* | *v* | *x* | *y* | *ý* | *z* | *þ* | *œ* | *ő* |

Þetta er íslenzka stafrofið, en svo bætum við þessum stöfum við það:

*C Q W*

*c q w*

*Á b c d e f g,*
*eftir kemur h í k,*
*l m n ó, einnig p*
*œtla' jeg q þar standi hjá.*

*R s t ú v eru þar nœst,*
*x y z þ œ ő.*
Alt stafrofið er svo læst
í erindi þessi lítil tvö.

Tölur með skáletri

| | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| *1* | *2* | *3* | *4* | *5* | *6* | *7* | *8* | *9* | *10* |
| *11* | *12* | *13* | *14* | *15* | *16* | *17* | *18* | *19* | *20* |

## 49.

## Skrifstafir.

A Á B C D Ð E É

a á b c d ð e é

F G H I Í J K L

f g h i í j k l

M N O Ó P Q R S

m n o ó p q r s

T U Ú V W X Y Ý Z

t u ú v w x y ý z

Þ Æ Ö

þ æ ö

50.

Bréf eru vanalega skrifuð með skrifletri. Nú getur þú lesið bréf, sem þú færð frá vinum þínum, og þegar þú ert farinn að skrifa vel, þá getur þú líka skrifað bréf. Það verður gaman.

Þú verður að læra að skrifa vel, svo að þú þurfir ekki að segja eins og maðurinn, sem orti þessa vísu:

Skriftin mín er stafa-stór,
stílað illa letur;
hún er eins og kattar klór,
jeg kann það ekki betur.

— : —

Skrifaðu bæði skýrt og rétt,
svo skötnum þyki snilli.
Orðin standa eiga þétt,
en þó bil á milli.

51.

Þetta bréf skrifaði Rúna litla í Lundi til vinstúlku sinnar í Winnipeg:

*Lundi 20. Maí 1920.*

*Góða vinstúlka!*

*Nú er orðið fallegt hérna út í sveitinni. Ó, hvað það væri gaman, ef þú værir komin til að leika þér við mig. Skógurinn er orðinn laufg-*

*aður og hveitið er farið að koma upp í ökrunum, svo að þeir eru líka að verða grænir. Allir litlu fuglarnir eru komnir og þeir syngja svo yndislega.*

*Við erum nýlega búin að sá í blómgarðinn okkar við skólann. Þú mátt til að koma í sumar og sjá hvað beðið mitt verður fallegt. Jeg skal líka sýna þér margt fleira, sem þú hefir gaman af að sjá.*

*Góða skrifaðu mér strax, þegar þú fær þetta bréf og segðu mér eitthvað úr bænum sem jeg hefi gaman af.*

*Mamma og pabbi biðja mig að skila beztu kveðju til ykkar allra.*

*Þín einlæg vinstúlka,*

*Guðrún Markland.*

---

52.

## *Vor og sumar.*

Þegar góða veðrið fer að koma, þá byrjar vorið. Þá eru allar skepnurnar látnar út, sem hafa þurft að vera inni í húsum allan veturinn, af því að veðrið var svo vont. Þá fá litlu börn-

in líka að leika sér úti á hverjum degi í góða veðrinu. Á vorin koma margir litlir, fallegir fuglar, sem syngja svo undur vel. Þá spretta grösin og fallegu blómin springa út. Þá er sáð í akrana og í garðana, og allir hafa mikið að gera; jafnvel litlu börnin þurfa að hjálpa til.



Þegar alt er orðið blómgað, þá segjum við að sumarið sé komið. Á sumrin er oft fjarska heitt; þá vex kornið á ökrunum, ávextirnir á trjánum og grænmetið í görðunum. Seint á sumrin er farið að slá kornið, tína ávextina af trjánum og taka upp úr görðunum. Svo er kornið þreskt og látið í kornhlöðurnar, og ávextirnir og grænmetið úr görðunum borið inn, áður en vonda veðrið kemur. Þá hafa litlu börnin gaman af að hjálpa til.

53.

## *Haust og vetur.*

Haustið kemur á eftir sumrinu. Þá fer að

kólna, blómin hverfa, grösin sölna og blöðin á trjánum blikna ; þau verða allavega lit. Það er oft yndislega fallegt á haustin.

---

Þegar vonda veðrið kemur, þá byrjar veturinn. Þá fer margt af fallegu fuglunum burtu, þangað sem veðrið er betra. Þá geta litlu börnin ekki verið eins oft úti, því að þá koma frost og hríðar og snjór. — Þá þurfa skepnurnar líka að vera inni.

---

Þegar sumarið kemur aftur, þá verða börnin glöð, því að þá hlýnar og fríkkar úti, svo að þau geta farið að leika sér um alt.

Þá geta þau sungið þessar vísur :

*Sumargleði-lag.*

Útí' er gaman,
syngjum saman
sumri lítinn óð.
Laufgast lim á meiði,
lýsir sól í heiði ;
fannir eyðast,
blóm út breiðast,
börnum skemtun góð.

Fríkkar hauður,
akur auður,
alt svo bjart í dag.
Kveðjum kaldan vetur,
kætumst, syngjum betur.
Úti' er gaman,
syngjum saman
sumargleði-lag.

— : —

54.

*Jólin.*

Þó að kalt sé á veturna, þá er oft gaman fyrir börnin ; en aldrei þó eins gaman eins og á Jólunum. Þá er börnunum gefið eitthvað fallegt, og þá er alt gert til þess að gleðja þau. Oft er þeim gefið jólatré, og þau leika sér í kringum það, kát og fjörug.



Veiztu hversvegna Jólin eru haldin ? Veiztu hversvegna verið er að gleðja alla á Jólunum ? Veiztu hversvegna öllum þykir svo vænt um Jólin ?—Það er vegna þess, að á Jólunum fæddist frelsarinn, Jesús Kristur. Jesús var betri en öll önnur börn ; hann gerði aldrei neitt ljótt ; honum þótti vænt um alla og var góður við alla.

Þegar hann varð fullorðinn, kendi hann fólkinu um Guð. Hann kendi okkur að Guð væri faðir okkar, sem elskaði okkur meira en nokkur maður gæti gert. Hann kendi okkur líka, að Guð, faðir okkar á himnum, vildi að við værum góð og gerðum aldrei neitt ljótt. — Jesús elskaði alla menn, og lifði til þess að gera öllum gott, einkum þeim sem bágt áttu. Enginn maður gat gert það sem hann gerði; hann læknaði þá sem voru veikir, og enginn annar gat læknað, og hann lífgaði dána menn.

En þó að Jesús væri svona góður, þá tóku vondir menn hann og deyddu hann. Og Jesús dó til þess að allir menn gætu komið til Guðs.— Biddu mömmu þína eða pabba þinn að segja þér meira um Jesúm Krist.

Jesús kendi okkur þessa bæn, sem heitir

*Faðir vor:*

"Faðir vor, þú sem ert á himnum, helgist þitt nafn, til komi þitt ríki, verði þinn vilji, svo á jörðu sem á himni; gef oss í dag vort daglegt brauð; og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldunautum; og

eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu;"

því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. Amen.

55.

## *Árið.*

Einni viku eftir Jólin kemur Ný-árið; þá teljum við að árið byrji.

Það eru 7 dagar í einni viku; þeir heita:

1. Sunnudagur.
2. Mánudagur.
3. Þriðjudagur.
4. Miðvikudagur.
5. Fimtudagur.
6. Föstudagur.
7. Laugardagur.

---

Það eru 12 mánuðir í einu ári, sem heita:

1. Janúar.
2. Febrúar.
3. Marz.
4. Apríl.
5. Maí.
6. Júní.

7. Júlí.
8. Ágúst.
9. September.
10. Október.
11. Nóvember.
12. Desember.

Ap. Jún. Sept. Nov. þrjátí' er,
einn til hinir taka sér ;
Febrúar tvenna fjórtán ber,
frekar einn, þá hlaupár er.

---

*Á* hverju ári höfum við vor, sumar, haust og vetur.

56.

*Canada.*

Canada er landið þitt ; það er gott land. Þér á að þykja vænna um landið þitt en nokkurt annað land, eins og þér þykir vænna um mömmu þína en nokkra aðra konu.

*Bandaríkin.*

Þú átt ef til vill heima í Bandaríkjunum, og þá eru þau landið þitt, sem þér á að þykja vænt um. Washington og Lincoln voru miklir og góðir menn.

## *Önnur lönd.*

Það eru mörg önnur lönd til. Þér á líka að þykja vænt um þau, og fólkið sem býr í þeim. Í Canada og Banda-ríkjunum eru menn frá öllum löndum í heimi, og þér á að þykja vænt um alla.

Jesús sagði okkur, að allir menn væru bræður okkar og systur.

## *Ísland.*

Ísland er landið, þar sem feður okkar og mæður áttu heima. Það er undur fallegt land. Það er stór eyja í sjónum. Þar eru há fjöll og djúpir dalir; þar eru ár og lækir með háum



fossum, og falleg vötn með syngjandi fuglum. Þar eru hraun og jöklar og eldfjöll og hverir.

Þar eru líka græn engi og blómleg tún. — Biddu mömmu og pabba eða ömmu eða afa að segja þér meira um fallega feðra-landið þitt.

Þér á að þykja vænt um Ísland, eins og þér þykir vænt um hana ömmu þína.

57.

## *Helga litla.*

*I.*

Einu sinni var lítil stúlka, sem hét Helga. Hún var falleg, með mikið, glóbjart hár, litlar, hvítar hendur og blá augu, svo blíð og skær. Mömmu hennar þótti undur vænt um hana, og pabbi hennar kallaði hana æfinlega góðu stúlkuna sína. Helgu litlu þótti gaman að vera úti, og hún tíndi falleg blóm fyrir mömmu sína á vorin, úti um alt engi, og stundum fór hún inn í skóginn, því að þar voru ennþá fallegri blóm. En mamma hennar sagði henni, að hún mætti aldrei fara ein út í skóginn, því hún gæti vilst og dáið í skóginum, eða þá úlfurinn eða björninn tekið hana. En Helga litla var nú ekki hrædd við úlfinn eða hann bangsa; hún sagðist bara leika sér við þá, ef þeir kæmu, eða fara á bak á þá eins og hann Val, stóra hundinn hans pabba síns, og láta þá bera sig heim, þeir gætu ekki vilst í skóginum.

Þegar berin komu á sumrin, þá þótti Helgu litlu gaman að tína þau; þau voru líka svo góð að borða þau með sykri og rjóma. Einu sinni

var mamma Helgu litlu lasin, svo að hún þurfti að vera inni. Helga var að leika sér úti, en pabbi hennar var úti á engi. Þá datt Helgu litlu alt í einu í hug, að gaman væri nú að tína dálítið af berjum og færa mömmu. Mamma hafði beðið hana að muna nú eftir því að fara ekki út í skóginn; en Helga hugsaði sér að það gerði ekkert til þó að hún færi bara inn í skógarjaðarinn — þar voru nóg ber — og svo ætlaði hún að koma strax aftur. Svo fékk hún sér stóran bauk inni í eldhúsi og fór út með hann án þess nokkur sæi hana. Þegar hún kom út í skógar-jaðarinn, þá fann hún dálítið af berjum og fór að tína; og altaf fann hún fleiri og fleiri góðar berjahríslur, sem hún þurfti að tína berin af. Hún gleymdi sér alveg og hætti ekki fyr en hún var búin að tína fullan stóra baukinn. Nú ætlaði hún að sýna mömmu og Stínu, vinnukonunni hennar, að hún gæti verið eins dugleg að tína ber eins og þær. Og hún var viss um, að pabbi hennar mundi kalla hana góðu, duglegu stúlkuna sína.—Svo ætlaði hún að hlaupa beint heim; og hún hljóp lengi, lengi, en sá hvergi bæinn.

58.

## *Helga litla.*

*II.*

Nú var Helga litla orðin vilt í skóginum. Þegar hún sá ofurlítið út úr skógar-þykninu, þá hélt hún, að nú mundi hún koma út á sléttuna

og sjá húsið sitt ; en þá voru það bara lítil rjóður. Svona gekk litla stúlkan lengi með berjabaukinn sinn í hendinni, þangað til hún var orðin uppgefin og sár-svöng. Loksins settist hún niður undir stóru tré og fór að gráta. Hún var farin að hugsa um mömmu sína og pabba sinn, og að hún mundi ef til vill aldrei koma til þeirra aftur. Hún fór líka að hugsa um úlfana og hann bangsa, sem voru í skóginum. Alt í einu sá hún úlf koma hlaupandi á milli trjánna. Já, hún vissi að það hlaut að vera úlfur, því að henni hafði verið sagt, að úlfurinn væri svo líkur honum Val, stóra hundinum hans pabba hennar. Hún varð ósköp hrædd, því að hún mundi eftir vonda úlfinum í sögunni af litlu Rauðhettu. En þá þekti hún að þetta var hann Valur, stóri hundurinn, sem henni þótti svo vænt um. Þegar hann sá hana, fór hann undir eins að gelta ; svo kom hann til hennar og sleikti á henni hendina. Og rétt í því sá hún pabba sinn koma. En hvað hún var þá glöð. Svo bar pabbi hana heim til mömmu. Bæði Helga litla og mamma hennar fengu ber með sykri og rjóma, og Valur fékk fult fat af graut og rjóma út á fyrir að finna Helgu litlu. Það var nú gott ; en svo lofaði Helga litla mömmu sinni því, að fara aldrei framar ein út í skóginn, ekki einu sinni út í skógar-jaðarinn. Og eftir þetta vissi hún, að það er æfinlega bezt að hlýða mömmu og pabba.

---

## 59.

## *George Washington forseti.*



Þegar George Washington var lítill drengur gaf pabbi hans honum einu sinni ofur-litla exi til að leika sér að. George þótti undur vænt um hana og langaði til að höggva eitthvað með henni. Í kringum húsið var trjá-garður, og þar átti pabbi hans mörg falleg aldintré ; en honum þótti lang-vænst um eitt þeirra ; það var kirsiberja-tré. Þegar George kom út í garðinn með nýju exina sína, þá langaði hann svo mikið til að höggva eitthvað með henni, að hann gat ekki stilt sig ; og svo hjó hann í stofninn á fallega kirsiberja-trénu, þangað til hann var nærri búinn að fella það. Þegar pabbi hans var að skoða trén sín í garðinum, þá sá hann að fallega tréð hans var að deyja, af því að það hefði verið höggvið í það. Hann vissi ekkert hver hefði gert það, svo að hann spurði alla á heimilinu að því, hver hefði skemt fallega tréð sitt. En enginn vissi neitt um það nema George litli. Þegar pabbi hans spurði hann, hver hefði höggvið tréð, þá var hann hræddur um, að hann yrði vondur við sig, ef hann segði honum að hann

hefði gert það ; en samt vildi hann ekki skrökva og sagði með tárin í augunum : "Jeg gerði það, pabbi minn, með litlu exinni minni." Þá tók pabbi hans hann í fang sitt og kysti hann og sagði: "Jeg vil heldur eiga einn dreng, sem æfinlega segir satt, en ótal kirsiberjatré."

George Washington varð mikill maður, af því að hann skrökvaði aldrei.



60.

## *LESTRARMERKI.*

### , *Komma eða högg.*

Komma er sett þar sem lítið eitt á að standa við í lestrinum.

### ' *Úrfellingarmerki*

er komma sem sett er ofan línu á eftir orði, eða á milli stafa, og táknar það, að þar er slept úr staf, eða að þar á að sleppa úr staf í framburðinum.

### ; *Depilhögg.*

Depilhögg táknar lítið eitt lengri þögn en komma.

### . *Punktur eða depill.*

Punktur er settur þar sem greinileg þögn á að vera í lestrinum. Hann er líka settur á eftir skamm-stöfunum.

### : *Tvídepill eða kólon.*

Tvídepill er settur á undan tilvitnunum.

### " " *Tilvitnunarmerki eða gœsalappir.*

Gæsalappir eru settar á undan og eftir orðum (eða setningum) sem tekin eru upp eftir öðrum.

### ? *Spurnarmerki.*

Spurnarmerki er sett á eftir spurningum.

### ! *Upphrópunarmerki.*

Upphrópunarmerki er sett á eftir orðum sem sýna geðshræringu.

### - *Band eða samtengingarmerki.*

Band er notað til að tengja saman orð eða atkvæði.

### ( ) *Svigar;* [ ] *hornklofar.*

Svigar og hornklofar eru settir utan um orð eða setningar, sem skotið er inn í til skýringar.

### — *Þankastryk.*

Þankastryk er sett þar sem löng þögn á að vera í lestrinum.



